# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

9. árg. WINNIPEG, SEPTEMBER 1894. Nr. 7.

## Davíðs sálmr 51.

Eftir séra VALDEMAR BRIEM.

Lag: Hvað hefir þú, minn hjartkær Jesú, brotið.

1. Ó, drottinn guð, eg man til synda minna,
en meira þó til velgjörninga þinna.
Þótt séu öll mín afbrot fjöllum hærri,
þín ást er stœrri.

2. Eg móti þér hef mörgum sinnum brotið,
en miskunn þína ótal sinnum hlotið.
Ó, virzt þú enn að hylja misgjörð mína
og miskunn sýna.

3. Mig hreinan þvo úr líknar þinnar lindum
og lauga mig af öllum mínum syndum,
svo hreinn eg verði' og hvítr eins og mjöllin,
sem hjúpar fjöllin.

4. Nú skapa, guð, mér hreint í brjósti hjarta,
svo helga þína mynd eg spegli bjarta,
og styrk að nýju afl í anda mínum
með anda þínum.

5 Frá augsýn þinni ei mig hrek tilbaka,
og anda þinn ei frá mér virztu taka;
og gef eg aftr frelsi fagna megi
á frelsisdegi.

6. Eg vildi feginn fórn þér dýra bjóða,
en fórn ei neina til eg hef svo góða;
eg hef ei nema hjarta sundrmarið,
því hitt er farið.

7. En sundrkramið, sundrmarið hjarta
þótt sýnist fyrir þér ei mega skarta,
eg veit þú, guð, ei vilt það fyrirlíta,
en vel því hlíta.

8. Upp bygg þú, drottinn, borgarmúra þína
í brjósti mér, og hrœr þú tungu mína,
svo gegn um hjartans hlið þér vegsemd ómi
og heiðr rómi.

---

## Að biðja í Jesú nafni.

Þýtt úr *Sunday School Times* (Philadelphia).

Jesús segir margsinnis við lærisveina sína: „Hvers sem þér biðjið í mínu nafni, það mun eg veita“; „Ef þér biðjið einhvers í mínu nafni, mun eg veita það“; „Hvers þér biðjið föðurinn í mínu nafni, það mun hann veita yðr“; „Á þeim tíma munuð þér biðja í mínu nafni, og ekki segi eg yðr, að eg muni biðja föðurinn fyrir yðr, því sjálfr faðirinn elskar yðr af því þér hafið elskað mig og hafið trúað, að eg sé kominn frá guði“. Hvað þýðir allt þetta? Hvað er að biðja í Jesú nafni? Er það, eins og margir kristnir menn sýnast ætla, að eins fólgið í því, að bœta við bœn sína, er maðr hefir endað hana, þessum eða þvílíkum niðrlagsorðum: „Og um allt þetta biðjum vér þig í Jesú nafni“? Eða er það nokkuð miklu meira, sem hér er átt við?

Til forna hjá hinum austrœnu þjóðum var svo litið á, að „nafn“ þess eða þess mannsins táknaði nákvæmlega persónu

hans. Nafnið og persónan var eitt og hið sama. Aftr á móti hefir „nafn“ eftir nútíðarhugsan hinna vestrœnu þjóða lítið aðra þýðing en áskrift, sem fest er við þann mann, er nafnið ber, í því skyni að eins, að greina hann frá öðrum mönnum. Að vita nafn einhvers, hafa rétt til að bera það nafn, tala og koma fram í því nafni þýddi samkvæmt hinum forna skilningi það, að vera hlut-hluttakandi í lífi þess sama manns, og gat sú hlutdeild hafa fengizt annaðhvort með fœðingunni, eða við gifting, eða með sérstökum sáttmála (arfleiðslu), og var þá sá, sem þennan rétt hafði öðlazt, orðinn nokkurskonar fulltrúi þess manns, er hann hafði fengið nafn sitt frá. Sonr, sem gengr undir nafni föður síns, ber eins og með sér persónu föður síns; hann á rétt á því og býst líka við því, að sér sé sýnd öll sú virðing, er föður hans tilheyrir. Maðr tilheyrandi einhverri fjölskyldu eða ætt er viðrkenndr eins og sá, er tilkall á til heiðrs þess, sem fjölskyldunni eða ættinni tilheyrir. Óbreyttum hermanni eða þjóni einhvers konungs eða landstjóra, sem kemr með boðskap frá herra sínum, er skyldugt að taka ekki eins og hann kœmi í nafni sjálfs sín, heldr með allri þeirri virðing, sem sjálfsagt er að sýna erindsreka slíkra höfðingja. Að biðja eða koma í nafni einhvers annars er því samkvæmt austrlenzkum og biblíulegum skilningi sama sem að vera fulltrúi þess manns, er maðr hefir fengið nafn sitt frá.

Þegar œðsti prestrinn í Ísrael kom fram fyrir drottin sem fulltrúi hinna tólf kynkvísla til að biðja um miskunn og náð þeim til handa, þá bar hann á brjóstinu, yfir hjartanu, brjóstskjöld settan fjórum gimsteinaröðum; og „steinarnir voru tólf eftir nöfnum Ísraelssona, hver með sínu nafni, grafnir með innsiglisgrefti, og nafn á hverjum þeirra eftir nöfnum hinna tólf kynkvísla“[1]. Og Aron, œðsti prestrinn, fék þessa skipan: „Aron skal ávallt bera nöfn Ísraelsmanna í dómskildinum á brjósti sínu, þegar hann gengr inn í helgidóminn, til minningar fyrir drottni“[2]. Þess var eigi þörf, að Aron nefndi á nafn hverja einstaka kynkvísl í hvert skifti sem hann gekk inn í helgidóminn svo sem fulltrúi bæði þeirra allra í einni heild og hverrar út af fyrir sig. Hann kom fram í þeirra stað. Nöfn þeirra voru í hjarta hans, merki þeirra og tákn voru á brjósti

1) 2. Mós. 28, 21. 2) 2. Mós. 28, 29.

hans, og þeirra vegna stendr hann frammi fyrir drottni biðjandi og berandi fram fórn eins og þarfir þeirra útheimtu.

Á líkan hátt getr undirherforingi þann dag í dag komið fram fyrir yfirhershöfðingja, með merkjum þeim, er tákna stöðu hans á öxlunum, og einkennum herdeildar þeirrar, sem hann tilheyrir, á brjóstinu, og í nafni herforingja-stöðu sinnar borið fram einhverja bœn, og er honum þá að sjálfsögðu tekið sem fulltrúa fyrir þá sömu herdeild. Eins getr að sínu leyti ameríkanskr borgari, er hann er staddr utanlands, og stendr undir flaggi Bandaríkja, búizt við að verða viðrkenndr sem þegn þess þjóðveldis með öllum þeim heiðri, er þar með fylgir, alveg eins fullkomlega eins og hefði hann nefnt á nafn í heyranda hljóði öll sambandsríki lands síns, fjörutíu og fjögur að tölu, hvert á eftir öðru í réttri röð svo sem deildir ríkisheildar þeirrar, sem hann er þegnskyldr og um leið getr krafizt þess af að veiti sér vernd. Að koma og biðja í nafni einhvers er þannig ekki fólgið í því, að kalla upp nafn persónunnar, sem nafnið á, heldr í því, að koma fram sem fulltrúi þeirrar sömu persónu.

Og að því er þá snertir það, sem nú er umtalsefni vort, að koma í Jesú nafni og biðja í Jesú nafni, þá getr enginn með réttu tileinkað sér fyrirheit þau, er Jesús hefir gefið þeim, sem biðja í hans nafni, fyrir það að hnýta nafn Jesú við bœn sína; þá fyrst hefir maðr þennan rétt, þegar maðr kemr fram sem fulltrúi fyrir það, sem nafn Jesú táknar. Þeir menn voru til á dögum postulanna, sem héldu, eins og margir kristnir menn nú á tímum ímynda sér, að maðr fengi sérstakt vald frá guði fyrir það að nefna Jesú nafn, rétt eins og það væri einhver töfraþula. Og menn með þessum hugsunarhætti „tóku sér fyrir, að nefna yfir þeim, er þjáðust af illum öndum, nafn drottins Jesú, segjandi: Eg særi yðr við Jesúm, sem Páll prédikar.“ Og eitt sinn, er hinn illi andi var særðr á þennan hátt, svaraði hann og sagði við þá: „Jesúm þekki eg, og við Pál kannast eg, en hverjir eruð þér?“ og hinn illa anda sakaði ekki neitt, heldr þvert á móti þá, sem tekið höfðu sér Jesú nafn í munn. (Pg. 19, 13—16). Þeir aftr á móti, sem höfðu anda Jesú og voru hluttakandi í eðli hans, lifðu og breyttu og töluðu og hugsuðu í hans nafni, nutu stöðugt velþóknunar guðs og öðluðust kraft af hæðum. Og þeir, sem þannig lifðu í hans nafni, urðu sökum nafns hans fyrir

elsku eða hatri frá fólki því, er þeir umgengust. Og allir þeir, sem þann dag í dag lifa í Jesú nafni, reyna nákvæmlega hið sama.

Hinn himneski faðir lítr til þeirra, sem leita til hans eftir blessan, og sér á andlitum þeirra og heyrir á rödd þeirra og les út úr hjartaslögum þeirra, að þeir elska son hans, eru honum líkir og lifa í honum. Og sökum sonarins, sem þeir eru eins og fulltrúar fyrir, tekr hann þá að sér og veitir þeim hina kærleiksríku hjálp sína til þess að bœta úr öllum þörfum þeirra og fullnœgja sérhverri þrá hjartna þeirra. Það, sem ávinnr þeim velþóknan guðs, sonar hans vegna, er ekki merki krossins, sem þeir kunna að bera á brjóstinu „í hans nafni“, né heldr orðin „í hans nafni“, er þeir kunna að enda hverja einstaka bœn sína með, heldr er það sönnun sú, sem þeir bera innst í hjarta sínu, fyrir því, að þeir í lífi sínu sé eitt með hinum eldra bróður sínum eins og guðs börn. Vér verðum að sýna, og ekki að eins segja, að það, sem vér biðjum um, biðjum vér um í Jesú nafni, ef guð á að anza því og taka það til greina. Þegar þessu er haldið föstu, þá sést það skýrt, að fyrirmyndarbœnin, sem Jesús hefir gefið oss til þess að biðja með, er bœn í nafni höfundarins, enda þótt í henni sé hvergi nefnt nafn hans; og eins er það líka auðsætt, að mörg bœn, sem ekki nefnir hann á nafn, getr í sannleika miklu fremr verið í nafni hans heldr en margar aðrar bœnir, sem hafa það nafn í sér, en sem ekki eru fram bornar í því nafni.

Ef vér viljum biðja um eitthvað í Jesú nafni, þá verðum vér að hafa vissu fyrir því, að vér þurfum að fá það hans vegna, og að það sé nokkuð það, sem hann myndi biðja um oss til handa, ef hann í raun og veru stœði í vorum sporum og flytti fram bœnir fyrir oss. Ef vér á þennan hátt komum til föðursins, þá komum vér í nafni, anda og líking sonar hans. Og faðirinn mun heyra oss og svara bœnum vorum, fyrir þá sök, að vér erum fulltrúar sonar hans, sem er hinn œðsti fulltrúi hans sjálfs.

---

## Hvað gjört var og hvað ekki var gjört á synodus.

---

Prestastefnan íslenzka, sem *synodus* er kölluð, var í sumar haldin í Reykjavík, um sama leyti og vant er, 4. Júlí. Voru

þar saman komnir 4 prófastar, 10 prestar og 2 prestaskólakennarar, auk stiftsyfirvaldanna, það er að segja biskups og amtmanns suðr- og vestrlandsins. Séra Ólafr Ólafsson í Arnarbœli prédikaði og hafði fyrir texta 1. Mós. 4, 9-10 (: „þá sagði drottinn við Kain: Hvar er Abel bróðir þinn? Og hann mælti: það veit eg ekkki; á eg að gæta bróður míns?" o. s. frv.). því næst var fundrinn settr í efrideildarsal alþingishússins, og var nú, í fyrsta sinni í sögu synodusar, haldinn í heyranda hljóði. Hafði sú nýlunda verið samþykkt á synodus í fyrra.

Annars gjörðist fátt, er tíðindum sætti, á samkomu þessari, enda stóð hún ekki yfir nema tæpar 4 stundir, að því er *Kirkjublaðið* segir frá. Eftir vanda var fé nokkru úthlutað til uppgjafapresta og prestaekkna og skýrt frá hag hins svo kallaða prestsekknasjóðs. Biskup skýrði frá því, að nefndin, sem um árið var kosin til að endrbœta handbók presta, væri vinnandi og hefði þegar komið sér saman um flest undirstöðu-atriði. Sömuleiðis vakti hann máls á sölu biblíunnar og nýja testamentisins frá brezka biblíufélaginu og beiddist þar fylgis fundarmanna. Einn prestr hreifði því, að prestum væri leyft að fella niðr guðsþjónustur í kirkjum sínum svo sem þrjá sunnudaga á ári, svo þeir fengi þá tœkifœri til að heimsœkja nágrannapresta sína og heyra þá prédika. En því var mótmælt, og var í þess stað komið með þá bending, samkvæmt því, er tíðkast í Danmörk, að heppilegt væri, að nágrannaprestar, til þess betr að geta kynnzt hver öðrum, kœmi saman á virkum dögum hver hjá öðrum, í því skyni að rœða um andleg mál, og enn fremr, að þeir í viðlögum á helgum dögum hefði kirknaskifti og flytti „messur" hver fyrir annan.

Eftirfylgjandi tillaga kom frá biskupi og var samþykkt í einu hljóði: „Synodus lýsir yfir því, að nú, þegar viðunanlega er bœtt úr prestafœðinni á Íslandi, sé það œskilegt, að nokkur prestaefni, sem því gæti við komið, vildi helga starfsemi sína andlegum þörfum landa vorra í Vestrheimi." Sömuleiðis hreifði biskup samskotum til missíónsprestsins íslenzka í Utah, séra Runólfs Runólfssonar, og ráðgjörði, að rita um það mál í prófastsdœmin sunnanlands.

Minnt var líka af einum fundarmanni (séra Jens Pálssyni)

á samþykkt synodusar í fyrra um samskot til hinnar fyrirhuguðu skólastofnunar kirkjufélags vors hér í Vestrheimi.

Á hin tvö stórmál, sem uppi voru á synodus í fyrra: frumvarp til laga um kirkjur landsins og frumvarp til laga um skipulag og stjórn andlegra mála í hinni íslenzku þjóðkirkju, sýnist á þessari synodus alls ekki hafa verið minnzt. Bæði frumvörpin komust inn á alþing í fyrra, en hvorugt fékk þar framgang, og hið síðara var jafnvel alls ekki rætt. Frá aðalefni þess var skýrt hér í blaðinu í fréttunum frá synodus í fyrra (*Sam.* VIII, 6). Hið fyrra frumvarpið fór því meðal annars fram, að myndaðr yrði sameiginlegr kirkjusjóðr fyrir allt landið, og hafa á síðast liðnu ári margar raddir víðsvegar að úr landinu komið fram, bæði frá héraðsfundum og einstökum mönnum, gegn því fyrirkomulagi. En þeir, sem nú sátu á synodus, láta ekkert til sín heyra um það mál.

Enn þá merkilegra finnst oss þó það, að hvorki ritstjóri *Kirkjublaðsins* né neinn annar skyldi með einu orði á þessari synodus minnast á hið mikla nýmæli, er *Kirkjublaðið* einmitt á þessu ári hefir tekið upp og ritað á prógramm sitt, um að losa kirkjuna á Íslandi undan landstjórninni. Aðskilnaðr ríkis og kirkju er vitanlega það stórkostlegasta og þýðingarmesta mál sem komið hefir upp í íslenzku kirkjunni frá því hún varð til, að undanskilinni trúarbótinni lútersku á 16. öldinni. Og hvort sem fleiri eða færri kennimenn í kirkju Íslands eru enn sem komið er með því nýmæli eða ekki, þá má furðu gegna, að enginn þessara synodus-manna skyldi finna hjá sér hvöt til að hreifa því á fundi þessum og gjöra það þar að almennu umræðuefni. Mest furðar oss á því, að ritstjóri *Kirkjublaðsins* skyldi ekki nota tækifærið til að skýra þetta sitt eigið mál fyrir fundarmönnum og vekja áhuga þeirra á því. Hann var þó áðr búinn að þreifa fyrir sér meðal kennilýðsins í landinu og fá vissu um það, að málinu myndi af mörgum vel tekið. Hann hafði eigi löngu á undan synodus-fundi þessum í blaði sínu sagt frá áliti 6 prófasta því viðvíkjandi, og sýnt, að þeir allir, að einum undanteknum (séra Þórarni Böðvarssyni), voru honum sammála. Mátti því ólíklegt virðast, að ritstjóri *Kbl.s* myndi standa einn uppi með þetta nýmæli sitt á fundinum og þyrfti fyrir þá sök að forðast að bera það þar fram. Við mótmælum hefði auðvit-

að mátt búast, að minnsta kosti frá þessum eina prófasti, sem þegar hafði opinberlega lýst yfir því að hann væri á móti, því vafalaust hefir hann verið á synodus þessari. En oss finnst endilega, að það hefði í alla staði verið œskilegt, að fá sem allra fyrst, og þá að sjálfsögðu einmitt nú á synodus, greinilega að heyra, hvað þeir hafa til síns máls, sem telja aðskilnað ríkis og kirkju hégómamál[1]. Vitaskuld er það reyndar, að synodus þessi hefði orðið að sitja nokkrum klukkustundum lengr en hún gjörði, hefði þetta stórmál verið tekið þar fyrir og rœtt nokkuð til hlítar. En úr því að þessir íslenzku prestar á annað borð eru að hafa fyrir því að koma saman víðsvegar að í því skyni að rœða um almenn velferðarmál kirkjunnar, þá sýnist ekki mætti minna en þeir hefði þolinmœði til að sitja á þeim samfundi einn heilan dag, og að minnsta kosti verðr að telja það ómynd, að menn flýti sér burt af almennri kirkjulegri samkomu, sem ber nafnið synodus, áðr en fullar fjórar stundir eru liðnar. Í fyrra og hitt hið fyrra, og jafnvel árið þar á undan, sýndist hin íslenzka synodus vera að manna sig upp til að verða eitthvað í líking við tilsvarandi kirkjuþing í öðrum löndum. En í ár hefir aftr þyrmt yfir samkomu þessa og augsýnilega sótt í gamla horfið. Í fyrra kom einn synodus-prestrinn með fyrirlestr, og hið sama hafði af öðrum manni (þá veranda forststöðumanni prestaskólans) verið gjört árið áðr, en í ár hefir enginn neitt þvílíkt fram að bera. Stórmál þau, er nefnd eru hér að framan, voru uppi á synodus í fyrra, og auk þeirra var líka hreift kristniboðsmálinu, þó að það fengi þá daufar undirtektir. Í ár er algjörlega þegjandi gengið fram hjá því eins og hinum báðum. Árin tvö næstu á undan þessu hefir synodus staðið yfir frá því um miðjan dag og þangað til um miðnætti, en í ár er allt fundarhaldið búið á tæpum fjórum klukkustundum. Í fyrra og hitt hið fyrra var líka í *Kirkjublaðinu* getið um, hverjir það voru, sem sátu á synodus, en í ár fær maðr ekki að sjá nöfn synodusmannanna, enda lætr *Kirkjublaðið* sér í þetta skifti nœgja, að koma með ágrip *Ísafoldar* af fundargjörðunum.

Ekki er þó vert að gleyma því, að þessi síðasta synodus á

1) Séra Þórarinn hefir nú að vísu í *Kirkjublaðinu* að nokkru gjört grein fyrir skoðan sinni á málinu. En fleiri eru sjálfsagt á móti en hann, og frá þeim hefir ekkert heyrzt.

Íslandi hefir verið að hugsa um andlegar þarfir vorar, Vestr-Íslendinga. Yfirlýsingin um það, að nokkur prestaefni þar heima ætti nú úr þessu að fara að leita hingað vestr til þess að starfa með oss að málefni guðs ríkis, ber vott um góðan hug oss til handa, og vér kunnum biskupinum sérstaklega þökk fyrir, að hann hreifði því máli, enda þótt naumast verði á næstu árum innan kirkjufélags vors pláz fyrir fleiri kennimenn en þá fáeinu ungu námsmenn vora, sem nú eru að undirbúa sig undir prestskap á skólum hér í landinu, í viðbót við þá presta, sem vér þegar höfum. Áskoran biskupsins um samskot til stuðnings séra Runólfi í Spanish Fork óskum vér að gæti haft sem mestan árangr, það því fremr sem kirkjufélag vort hefir hingað til svo gott sem ekkert getað fyrir hann gjört. Þó að hið enska lúterska kirkjufélag *General Council*, sem hefir gjört hann að presti, hafi tekið hann og missíón hans meðal landa vorra þar í Mormónalandinu að sér, þá væri óneitanlega viðkunnanlegra, að honum og því trúarboðsfyrirtœki kœmi einhver stuðningr úr íslenzkri átt.

---

## Nýtt uppeldisrit.

Meðal rita þeirra, er í ár koma frá Þjóðvinafélaginu íslenzka, er „uppeldisleiðarvísir", sem heitir „foreldrar og börn", rúmlega hálft annað hundrað blaðsíður að stœrð í smáu 8 blaða broti. Bókin er sögð að vera frumrituð á hollenzku, en séra Ólafr Ólafsson í Arnarbœli hefir fœrt hana í íslenzka búninginn, sem hún birtist nú í, og hefir hann um leið talsvert snikkað hana til, svo hún gæti betr átt við ástandið á Íslandi.

Upphaf bókarinnar er dálítið merkilegt fyrir þá sök, að það heyrist vera bergmál af ritgjörð, sem vér tókum saman fyrir 8 árum og byrjuðum með 1. tölublað *Sameiningarinnar*. Var þar lagt út af orðunum „Eitt er nauðsynlegt", og stendr þetta í þeirri grein: „Það, sem þar (nl. á Íslandi) er sérstaklega talið — — — brýn nauðsyn fyrir þjóðina á þessum tíma, er meðal annars þetta, að meira stjórnfrelsi fáist, að búnaðrinn taki framförum, að verzlanin komist í hendr landsmanna sjálfra, að mönnum notist til hlítar sínar eigin fiskiveiðar, — — — að

samgöngur verði margfalt greiðari en er bæði á sjó og landi" o. s. frv. — Bók séra Ólafs byrjar með þessari spurning: „Á hverju hefir þjóð vor nú mesta þörf?" Og síðan er haldið áfram með þessum orðum: „Á þessa leið spyr margr alvörugefinn maðr um þessar mundir. Svörin verða ýmisleg, sem við er að búast. Einn segir: Vér þurfum helzt af öllu meira stjórnfrelsi. Annar: Vér þurfum að auka og bœta samgöngurnar. þriðji: Vér þurfum að efla atvinnuvegina." Í ritgjörð vorri stendr nokkru á eftir því, er þegar er tilfœrt: þú hefir mikla áhyggju og umsvif fyrir mörgu, en eitt er nauðsynlegt — segir frelsari heimsins, — — drottinn Jesús Kristr", o. s. frv. En hjá séra Ólafi stendr svo: „Við oss Íslendinga, eins og raunar fleiri þjóðir, má segja: þér hafið mjög miklar áhyggjur og umsvif fyrir mörgu, en eitt er nauðsynlegt." það er auðsætt, að þetta bergmál af orðum vorum í upphafs-nr.i *Sameiningarinnar* er frá þýðandanum og heyrir ekki frumritinu til.

Eins og geta má nærri er margt satt og rétt í bók þessari, og ýmsar góðar bendingar eru þar vafalaust snertandi barnauppeldi, sem aldrei hafa áðr verið teknar fram í riti á íslenzku. En langt um betr finnst oss vera gengið frá ritlingi Herbert Spencers um uppeldi, sem út var gefinn á íslenzku fyrir nokkrum árum. Meginreglum Spencers með öllum kostum þeirra og löstum er þó fylgt í þessum nýja uppeldisleiðarvísi. Spencer tekr, eins og kunnugt er, ekki kristindóminn með í reikninginn. Í bók séra Ólafs er reynt að bœta úr því, en ekki kemr það fram nema á pörtum, í einstökum köflum, sem oss finnast standa í mjög lausu sambandi við aðalhugsan bókarinnar, nærri því eins og þeim hafi verið bœtt við á eftir. Er líklegt, að mest af því, er trúna snertir í bókinni, sé af þýðandanum skotið inn í ritið frá hans eigin brjósti, og að svo miklu leyti sem það getr samrímzt ritinu í heild sinni, er það góðra gjalda vert. Á bls. 12. er fundið að því, hve rœkilega fylgt hafi verið á Íslandi „áminningunum hans Salómons, að spara ekki vöndinn," og í þess stað ráðið til þess að „fara vel að barninu" og „sýna því kærleika". þetta er ekki heppilegt. Rétt eins og áminningar þær í biblíunni, sem hér er átt við, sé nú orðnar úreltar, dugi nú ekki lengr; og rétt eins og ekki gæti neinn sannr kærleikr staðið á bak við aga þann, er hér er um að rœða.

það kemr fram á þessum stað eins og svo undr víða í bók þessari, að ekki er komið með nema hálfan sannleikann.

Skrítið er að sundrliða vitið í þessa sex hœfilegleika: eftirtekt, hugmyndakraft, skilning, minni, dómgreind, ímyndunarafl — og taka svo á eftir fram, þá er öllum þessum vit-tegundum hefir verið lýst: „Sumir bœta hér við skynseminni". Og hvað er svo skynsemin? Svar: Hún er „hœfileikinn til þess að komast út yfir hið skynjanlega og endanlega, til þess að rannsaka alla hluti ofan í kjölinn, komast að takmarki allra hluta, hœfileikinn til þess að komast út yfir hið verulega, til þess að mynda hugsjónir"(!). Er ekki þetta svart?

Á bls. 40. stendr: „Í hjarta mannsins er lind lífsins, en þar er og uppspretta minnisins". þetta um uppsprettu minnisins í hjartanu er víst ekki fullkomlega hálfr sannleikr.

það er margt fleira geggjað af því, sem sagt er til þess að gjöra grein fyrir hinum eintöku hœfilegleikum vitsins. Um reikningsnám er tekið fram, að það sé flestu öðru betr fallið til þess að „styrkja og æfa dómgreindina hjá unglingunum", og þar við svo tafarlaust þessu bœtt: „Sannleiksást þess, er dóminn fellir, rœðr og miklu um það, hvort dómrinn verðr réttr eða rangr". það, sem hér er sagt um sannleiksástina kemr þarna—við hliðina á þýðing reikningsnámsins—eins og skollinn úr sauðarleggnum. Rétt ályktan hugsunarinnar eins og í reikningsdœmi á ekkert skylt við það, hvernig menn dœma um það eða það í siðferðislegu tilliti. Um ímyndunaraflið er kennt, að það sé „gáfa sú, er vér setjum saman með orð og atvik, er annaðhvort hafa fyrir oss borið í raun og veru, eða þá ekki eru á rökum byggð", og „kallast þá ímyndunaraflið skapandi". þetta er hin mesta lokleysa.

Ekki er betr gjörð grein fyrir „tilfinningunum" á 43. bls. þar segir svo: „Ef oss er boðið í veizlu, vekr það hjá oss gleði; en hluttaka í veizlunni vekr hjá oss kæti. Ef vér aftr á móti setjumst aftr af veizlunni og metum meira að rœkja einhverja helga skyldu, þá vekr það hjá oss hjartanlega ánœgju." Og enn fremr: „Gleðin, sem vaknar, er oss er boðið í veizlu, er kölluð *andleg tilfinning*; kætin við veizluborðið *holdleg tilfinning*, en ánœgjan yfir því að meta skylduna meir en veizluna, *siðferðis-*

*leg tilfinning*". Þetta allra síðasta má til sanns vegar fœra. Allt hitt er blátt áfram bull.

Hæpið er að kenna eins og á bls. 68., að ósannsögli sé stundum ekki annað en sjúkdómr, þó að læknir, sem sagt er sé nafnfrægr, sé fyrir því borinn. Eða sé eitthvað satt í því, þá á sá sannleikr alls ekki heima í svona löguðu riti. Hér átti að eins að vera rœtt um siðferðislega ósannsögli; því nær það ekki heldr neinni átt að vera að tala um ósannsögli, sem eigi rót sína í of miklu ímyndunarafli.

Á bls. 90. er sagt, að börn og unglingar ætti helzt aldrei að heyra frásögur af vondum mönnum. Ef það væri rétt, þá dygði ekki að hafa í biblíusögum þeim, sem börnum eru ætlaðar, neitt um Kain eða Absalon eða Júdas. Um aðra eins menn í fornsögum vorum og Mörð Valgarðsson mætti þá auðvitað ekki heldr frœða þau neitt.

Á 119. bls. er minnzt á metorðagirndina og tekið fram, að hún veki viljann og kappið hjá ungum og gömlum, enda sé þetta ráð oft notað við börn og unglinga. Engin athugasemd er við þetta gjörð, heldr þvert á móti gengið út frá því svo sem nokkru sjálfsögðu: „Fermingarbörnunum er raðað eftir því hvernig þau eru að sér; skólabörnunum sömuleiðis.“ Veit þá ekki höfundrinn eða þýðandinn, að svona löguð niðrröðun er nú sem óðast að leggjast niðr, og að minnsta kosti í sambandi við ferminguna af flestum dœmd algjörlega óhafandi.

Á 93. bls. stendr: „Ef illa fer (nl. fyrir börnunum), er það foreldrunum hin mesta og bezta huggun, að vita með sjálfum sér, að þau hafa gjört allt, sem í þeirra valdi stóð, til þess að afstýra ógæfunni.“ Skyldi þetta virkilega vera sögulega og sálarfrœðislega rétt? Skyldi samvizkusömum foreldrum nokkurn tíma finnast þeir hafi gjört allt, sem í þeirra valdi stóð, til þess að leiða börnin sín á veg gæfunnar?

Um einstöku óviðkunnanleg orð eða orðatiltœki, sem fyrir koma í bókinni, er ekki vert að tala. Taka má þó fram, að í svona lagaðri bók er of óvirðulegt að tala um „stráka og stelpur“ (bls. 31. og víðar). Og þar sem haft er eftir fólki (á bls. 23.), að það sé á mannfundum að rœða um annað eins og „geldingarstrenginn“ í folunum“, þá er slíkt alveg óþolanda.

Vér erum dauðhræddir um, að bók, sem úir og grúir af við-

líka axarsköftum og þeim, er hér hafa verið tilfœrð, geti undr lítið gagn gjört, þó að margt sé þar innan um satt og rétt, eins og að framan er um getið.



Frá því. hefir áðr verið sagt í *Sam.* (Jan. 1893), að Gyðingaland hafi fyrir skemmstu fengið sína fyrstu járnbraut frá Jaffa (eða Joppe, eins og bœrinn er kallaðr í biblíunni) við strönd Miðjarðarhafsins gegn um Ramle og Lydda til Jerúsalem. Sú leið er ekki nema lítill vegarspotti, einar 36 enskar mílur. En nú, rétt í sömu andránni og verið er að þinga um járnbrautarlagning á Íslandi, kemr frétt um það, að byrjað sé á tveimr nýjum járnbrautum í landinu helga og þar í nágrenninu. Önnur þeirra liggr eða á að liggja frá Haifa og Akka, tveim bœjum hvorum skammt frá öðrum við Miðjarðarhafið á ströndinni vestr af Galíleu, norðr og austr til Damaskus, og er Esdraelon-sléttan og Jesreel-dalrinn á þeirri leið. Bœrinn Haifa er rétt hjá fjallinu Karmel; Akka eða Akre er litlu norðar, alkunnr bœr frá sögu krossferðanna á miðöldunum. Hin nýja járnbrautin byrjar í bœnum Beyrout á strönd Sýrlands all-miklu norðar og á að liggja þaðan austr og suðaustr um land og eins og hin áðr nefnda ná til Damaskus. Það er frakkneskt félag, sem leggr þá braut, en enskt félag, sem leggr hina.— Þá hefir og í síðustu tíð út úr brautinni milli Jaffa og Jerúsalem verið lögð braut suðr eftir landi (Júdeu) allt til Gaza, og nú er ákveðið, að halda henni áfram suðr um Súez-eiðið til Egyptalands.

Það er eitthvað undarlegt að hugsa um landið helga, land patríarkanna, spámannanna og postulanna, föðurlandið frelsarans, orðið að járnbrautalandi. Og þó má vera, að bent sé á það í sjálfri biblíunni, að einmitt þetta óvænta og undarlega muni á sínum tíma koma fram. Í spádómsbók Esajasar eru nokkrir staðir, sem sumir vilja nú skilja svo, að þar sé verið að spá fyrir þessum járnbrautum, sem landið er að fá á þessum tíma. Helzti staðrinn er í 8. versi 35. kapítulans, sem eftir íslenzku biblíunni hljóðar þannig: „Þar skal verða brautarvegr. Sú braut skal kallast hin helga.“ Nákvæmar þýtt á þetta að vera eftir orðanna hljóðan í frumtextanum: „Þar skal verða upphækk-

uð braut og braut; og brautin til helgidómsins skal hún kölluð verða.“ Nafn Jerúsalems er á tungu Araba og fleiri austrlandamálum blátt áfram „Helgidómrinn“. Hin nyja járnbraut frá Joppe til Jerúsalem er nú líka af Aröbum þar eystra kölluð *Trekh Elkhods*, sem þýðir „brautin til helgidómsins“. — Hinir staðirnir hjá Esajasi, sem tala um óvenjulega stórkostlega brautarlagning um landið, eru 11, 16; 19, 23; 62, 10. Annars hefir vanalega andleg þýðing verið lögð í þessa spádóma.

---

## Fólkstalsskýrslur

safnaðanna, lagðar fram á kirkjuþingi 1894.

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 1. | Winnipegsöfnuðr.... | fermdir | 820 | ófermdir | 330 | alls | 1150 |
| 2. | Frelsiss............ | „ | 175 | „ | 160 | „ | 335 |
| 3. | Fríkirkjus.......... | „ | 122 | „ | 83 | „ | 205 |
| 4. | Brandons........... | „ | 60 | „ | 51 | „ | 111 |
| 5. | þingvallanýlendus.*. | „ | 77 | „ | 69 | „ | 146 |
| 6. | Lúterss.*.......... | „ | 39 | „ | 36 | „ | 75 |
| 7. | Selkirks............ | „ | 35 | „ | 30 | „ | 65 |
| 8. | Víðiness.*.......... | „ | 31 | „ | 32 | „ | 63 |
| 9. | Brœðras............. | „ | 88 | „ | 70 | „ | 158 |
| 10. | Fljótshlíðars.*...... | „ | 72 | „ | 43 | „ | 115 |
| 11. | Pembinas.......... | „ | 97 | „ | 120 | „ | 217 |
| 12. | Pétrss. ............ | „ | 95 | „ | 85 | „ | 180 |
| 13. | Vídalínss........... | „ | 190 | „ | 200 | „ | 390 |
| 14. | Hallsons............ | „ | 60 | „ | 65 | „ | 125 |
| 15. | þingvallas.......... | „ | 60 | „ | 57 | „ | 117 |
| 16. | Víkrs............... | „ | 230 | „ | 152 | „ | 382 |
| 17. | Garðars............ | „ | 393 | „ | 290 | „ | 683 |
| 18. | Fjallas............. | „ | 72 | „ | 51 | „ | 123 |
| 19. | Graftons........... | „ | 18 | „ | 26 | „ | 44 |
| 20. | Árness.*........... | „ | 27 | „ | 20 | „ | 47 |
| 21. | St. Pálss........... | „ | 71 | „ | 53 | „ | 124 |
| 22. | Marshalls.*......... | „ | 28 | „ | 24 | „ | 52 |
| 23. | Spanish Forks.*..... | „ | 52 | „ | 34 | „ | 86 |
| 24. | Lincolns.* .......... | „ | 90 | „ | 64 | „ | 154 |
| 25. | Vestrheimss.*....... | „ | 57 | „ | 23 | „ | 80 |

Samtals fermdir 3059, ófermdir 2161, alls 5227

þeir söfnuðir, sem merktir eru með *, lögðu enga fólkstalsskýrslu fram á kirkjuþinginu. Fólkstalið í þeim er látið vera hið sama og í seinustu skýrslum. Tveir seinustu söfuuðirnir standa eigi í kirkjufélaginu, en séra N. Steingr. þorláksson hefir þjónað þeim.
H. P.

Upp úr missíóninni í suðvestrhluta Winnipegbœjar, sem séra Hafsteinn Pétrsson hefir haldið uppi síðan í vor (sbr. Maí-nr. *Sam.*), hefir nú myndazt reglulegr söfnuðr, sem gefið hefir verið nafnið *Tjaldbúðarsöfnuðr*. þessi nýi íslenzki söfnuðr hefir kallað séra Hafstein sér til prests út af fyrir sig, og hefir hann með samþykki „Fyrsta lúterska safnaðar í W.peg" tekið þeirri köllun. Guðsþjónustur hins nýja safnaðar eru enn haldnar í skólahúsinu, þar sem missíónin var fyrst byrjuð, og sömuleiðis sunnudagsskóli safnaðarins, sem hefir verið í gangi síðan um mitt sumar. En áðr en mjög langt líðr er búizt við, að söfnuðrinn geti haldið samkomur sínar í guðsþjónustuhúsi, sem hann á sjálfr, því hann hefir þegar fest kaup í kirkju einni norðar í bœnum, sem söfnuðr nokkur til heyrandi biskupakirkjunni ensku (St. George) hefir lagt niðr. Er það rúmlegt og gott hús, og fæst fyrir mjög lágt verð (eina 400 doll.); en flutningr hússins og nauðsynleg viðgjörð á því er mikill kostnaðarauki.

## *KVITTANIR FYRIR GJÖFUM TIL SKÓLASJÓÐS.*

Á undan kirkjuþingi:

Á. Friðriksson $3.00; Asta Þóra Jónsdóttir 2.00; Ragnhildr Jónsdóttir 1.00; Sigríðr Jóhannsdóttir 0.50; Kristín Jóhannsdóttir 0.50; Sesselja Bjarnadóttir 0.50; Jónína Eyjólfsdóttir 0.50; Mrs. Fjeldsted 0.25; Kristbjörg Jóhannesdóttir 0.25; Helgi Pálsson 0.25; J. J. Bildfell 1.00; Ögmundr J. Bildfell 0.50; Mrs. E. Scheving 1.00; ónefnd 5.00; Sig. Davíðsson 1.00; Friðrik Árnason 0.25; Mrs. Jónasson (frá Nýja Ísl.) 0.50; Stefanía Björnsdóttir 0.50; Þuríðr Kristjánsdóttir 0.50; Hólmfr. Gamalíelsdóttir 0.25; Fred Stevenson 2.00; H. Jóh. Jónsson 0.50; Sigtr. Ólafsson 1.00; Þuríðr Indriðadóttir 1.00; Mrs. Sigtr. Ólafsson 0.50; Jórunn Jónsdóttir 0.50; Jóhanna Þórarinsdóttir 0.50; Áslaug Indriðadóttir 0.50; Jóhannes Nordal 1.00; Sigríðr Bjarnadóttir 1.00; Mrs. G. Jóhannsson 0.50; Oddný Pálsdóttir 0.50; María Ólafsdóttir 0.50; H. Halldórsson 2.00; Albert Jónsson 1.00; Ögm. Ólafsson 0.50; Gísli Goodman 0.50; J. Blöndal 3.00; Björn Skaftason 1.00; Elísabet Jónsdóttir 1.00; Björg Jónsdóttir 2.00; Eiríkr Sigurðsson 2.00; ónefndr 1.00; Hólmfr. Jónsdóttir 1.00; Sigríðr Jónsdóttir 1.00; Valgerðr Finnbogadóttir 1.00; Sesselja Jónsdóttir 0.50; Sigrbjörn Kristjánsson 1.00; A. Anderson 0.50: Eleónóra Júlíus 4,00; Sigríðr Þorvarðardóttir 1.00; séra J. Bjarnason 10.00; Rakel Jörundsdóttir 1.00; A. F. Reykdal 3.00; Daníel Backmann 0.25; Björg Runólfsdóttir 0.50; Pálína Jónsdóttir 1.00; Oli V. Ólafsson 1.00; Sigfús Anderson 1.00; Stefán Jónsson 1.00; B. T. Björnsson 0.50; Sigríðr Jónsdóttir 2.00; Þorvarðr Sveinsson 0.50; S. Salómonsdóttir 0.10; Percival Jónason 1.00; W. H. Paulson 2.00; séra Hafsteinn Pétrsson 2.00; Karl Vopni 0.25; Jón Vopni 1.00; Stefán Sveinsson 1.00; Kristín Rafnkelsdóttir 1.00; Lára Scheving 1.00; Helga Jósefsdóttir 1.50; Sesselja Jóns-

dóttir 0,50; Margrét Bergsveinsdóttir 0.50; Guðrún Ólafsdóttir 0.50; Benedikt Rafnkelsson 1.00; S. Þorvarðsson 0.50; Haraldr J. Olson 1,00; Hjörtr Lárusson 0.25; Lizzie Thomson 0.50; Guðm. Féldsted 0.25; Jens Laxdal 0.25; Kristján Olafsson 2,00; Þórarinn Breckmann 0.50; ónefndr 0.25; Halldór S. Bardal 1.00; Páll S. Bardal 1.00; allir þessir, sem nú voru taldir, í Winnipeg—; Elin Guðmundsdóttir, Garðar, 0,25; Ingveldr Samúelsdóttir, Garðar, 0,15; Guðlaug Brandsdóttir, Garðar, 0,10; Anonymus, Garðar, 0.50; Sigfús Bergmann, Garðar, 3,00; Jónas S. Bergmann, Garðar, 0,50; Jón Þórðarson, Canton, 1,00; Sigurðr Sigurðsson, Garðar, 5,00; Halldór Halldórsson, Garðar, 0,50; Ólafr Þorsteinsson, Pembina, 1,00; J. S. Bergmann, Garðar, 5,00; Elín Thorlacius, Garðar, 2,00; Jón Jónsson Mœri, Mountain, 3,00; I. V. Leifr, Glasston, 1,00.

Síðan á kirkjuþingi:

(pr. P. S. Bardal) Jón Sigvaldason 1.00; Haraldr Sigurðsson 1,00; Steinvör Lárusdóttir 1.00; A. S. Bardal 0,50; Mrs. A. S. Bardal 0,50 (öll í Wpg).

---

Biblían og nýja testamentið er til kaups hjá ritstjóra *Sam.*

---

Hr. *Sigrbjörn Sigrjónsson*, 164 Kate St., sendir út „Sameininguna".

---

Hr. **Sigrbjörn Sigrjónsson** (164 Kate St.) hefir frá útgafunefnd „Sameiningarinnar" fengið umboð til að innkalla hinar útistandandi skuldir blaðsins, nema frá kaupendum í Dakota, þar sem séra **Friðrik J. Bergmann** er innköllunarmaðr. Féhirðir blaðsins er hr. JÓN BLÖNDAL, 545 William Ave.

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; fjórði ársfjórðungr 1894.

5. lexía, sunnud. 4. Nóv.: Jesús herra sabbatsins: Mark. 2, 23—3,5
6. lexía, sunnud. 11. Nóv.: Hinir tólf postular útvaldir: Mark. 3, 6—19.
7. lexía, sunnud. 18. Nóv.: Fjallrœðan: Lúk. 6, 20—31.
8. lexía, sunnud. 25. Nóv.: Mótspyrna gegn Kristi: Mark. 3, 22—35.

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave. Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Blöndal,

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.